# Auglýsing
sú er fyrst um sinn birtiz
um
# Lausn ennar Íslenzku Kauphöndlunar
og þá
# Skilmála
Med hvörium Eignir núverandi Kauphöndlunar á Íslandi eptirlátaz þeim, er vilia á hendur takaz fría Kauphöndlun þar á landi.

Fridriksbergs-Sloti þann 18. Augusti 1786.



Kaupmannahöfn,
Prentad hiá Aug. Fridr. Steini.

Vér Christián
enn Siøundi af
Guds náð, Danmer-
kur, Norvegs, Vinda og Gauta Konúngr,
Hertugi í Slesvík, Holsetulandi, Stórmæri, Þéttmerski
og Aldinborg.

Géfum øllum til vitundar: At Vér af lanzfødr-
legri umhyggiu fyrir Voru landi Íslandi, og øllum
Vorum þegnum til góða, høfum allramildiligazt ályktat,
framvegis at leysa olldúngis fría og friálsa Kauphøndlun
þar á landi; því bióðum Vér hérmeð og skipum:

1.

Núverandi Kauphøndlunar tilskipun vilium Vér
hérmeð allramildiligazt aftekit hafa, frá 1ta Januarii
1788; svo at þat léns bref (*Octroy*), sem Vor sæli Herra
Faðir veitt hefir þeirri Íslenzku Kauphøndlun, ásamt
Vorri íslenzku Taxta- og Kauphøndlunar-tilskipun af
30ta Maji 1776, og Reglimentinu um somu kauphøndlun
af 2rum Julii 1781, skal frá greindum degi vera olldúngis
aftekit

afteknit og máttlaust, at því leiti, sem Íslandi vidkémr. Somuleidis vilium Vér hérmed hafa afteknit oll Vor, edr Vorra sælu Forfedra log og fyriskipanir á Voru landi Íslandi, at svo miklu leiti, sem þau snerta kunna ádrsagda lénta *(octroyerada)* Kauphondlun serklagi.

2.

Þar ed Vér allranádarsamligazt leyfa vilium, at allir þeir þegnar Vorir, er tímanliga bióðaz til, megi þegar á næztkomanda sumri 1787, uppsigla nockrar hafnir á Íslandi, þá hofum Vér og einnin allramildiligazt í sinni, nú þegar at bióda, at Vor ádrnefnd Taxtaskipan af 30ta Maii 1776, sé frá 1ta Maii 1787, alldúngis máttlaus, at því leiti, er hún setr, víst verd edr taxta á þann varníng, er flyzt inn og út af Íslandi, svo at alls eckert fastsett verd á inn- og út-færslu varníngi, skuli framar á Íslandi til vera, frá þeim degi at reikna.

Eins og nú Innbyggendr lanzins siálfir megu koma sér saman um verdlagit, vid þá kaupfara úr Vorum Ríkium og Londum, er, þegar at sumri komanda, máské kynnu at uppsigla Landit, svo skulu þeir ei helldr framvegis borga naudsyniar sínar eptir taxtanum, þar sem kaupbondlan enn þá at ári, kynni á Vorn kostnat vidhalldaz, helldr eptir sannsýnu verdlagi, er Vorir kaupbondlunar Forstiórar áqvarda skulu; somuleidis skulu innbyggendrnir ei framar bundnir vera vid taxtans verdlag á lanzins

varníngi, sem einnin skal borgaz þeim eptir jofnudu kaupskapar verdlagi, er seinna meir áqvardaz.

3.

Þar ed Vér alls eingri kaupþondlun viliúm á Vorn kostnat framar vidhallda á Íslandi, frá byriun ársins 1788, þá skal og slík kaupþondlun þadan í frá olldúngis frí og friáls lofaz, bædi siálfum Íslendíngum, og eins ollum odrum þegnum Vorum í Nordrálfunni (*Europa*) nema í þeim londum einum, hvar lént (*octroyerud*) kaupþondlun enn þá vidhefz. Sé þat því Allranádarsamligazt leyft þeßum Vorum þegnum, at sigla til Íslanz, frá hverium inn edr út-lenzkum stodum, og eins frá Íslandi til sérhvors inn-edr út-lenzks stadar, er þeir helzt vilia, halldi þeir at eins bodord þau, sem almennt útgefin eru um kaupþondlun og skipfarir til þvílíkra stada.

4.

Samt er þat Vor Allranádarsamligazti vilie og skipan, at einginn af þegnum Vorum, megi á Íslandi neina kaupverzlun hafa vid nockurn framanda, sem mátské kynni þángat at sækia, í hveriu hellst skini, sem vera kann; því skal og Vort útgéfna forbod af 1ta Aprilis 1776, á móti slíkri óleyfiligri kaupverzlun framvegis óbriálat standa, unz frekara hér um áqvardaz, eptir því, sem Frí-kaupþondlun bezt mætti henta.

Þat

Þat sé og framvegis öllum framandi bannat, at kauphöndla á Íslanz haf-straumum, edr vid siáfar-strendur og þángat at sigla framar enn híngat til leyfz hefir, ellegar at verka fisk sinn á Landinu, hvar til ei einúngis einginn af innbyggendunum má vera þeim vilveittr, helldr skulu yfirvolldin miklu framar leitaz vid, at fá slíku hamlad eptir því, sem ádrnefnd skipan býdr.

5.

Þarámót skal öllum ádrsögdum þegnum Vorum í siálfs valldi standa, frá byriun ársins 1787, at hallda skipum til fiskiar umhverfis Ísland, sem þeir best vilia og kunna, og at verka afla sinn á Landinu, þó eptir löglegu samkomulagi vid hlutadegendr, er lódina egu, og skulu yfirvoldin hafa þará vakandi auga, at eingin vanbrúkun hér af leidiz.

6.

Eins má þat ádrgreindum þegnum Vorum leyft vera, at uppsigla nockrar hafnir á Íslandi, þegar at vori komanda 1787, vilie þeir þeßa beidaz fyri næzt-komanda átta dag Jóla; megu þeir og vona, at þeim þá líka muni, sem best verdr, skírt frá öllu því, er naudsynligt þykir at vita, um þá stadi, hvar þeir vilia kaupskap i frammi hafa, og at þeim eptir því, sem ástendr, veitiz einhvorzkonar hentug

A 3 hlunnindi,

hlunnindi, at þeir keypt gætu þá farma af íslenzkum varníngi, er Vor kauphøndlan kynni þá at ega þar í landi.

7.

Þó skal til þeßarar kauphøndlunar einúngis brúka innlenzk skip, og vid þau fylgia sømu reglum, sem hin, er sigla med Algéríkum sió-poßum; svo at Reidararnir, ætíd skulu útvega þeim íslenzka paßa, sem, medan friunar árin vara, skulu þó einúngis kosta 2 Rdli. í skrifara-laun.

Enn framar skulu allir Reidarar skylldir, at innsenda greiniligt registr yfir allann þann varníng, sem skipit er fermt med, bædi þegar þat leggr út frá einhverium innlenzkum edr framandi stad, og eins þegar þat er lagt inn til einhvers innlenzks edr framandi stadar. Sama skulu og Skipherrar adgæta, þegar þeir leggia inn og út frá einhverium íslenzkum, og eins, er þeir komnir eru til einhvors innlenzks edr framandi stadar. Slík registr megu þar hiá sønnut vera af hlutadegandi Tollaheimturum, sé skipit fermt edr affermt á einhverium innlenzkum Tollstad.

8.

Øll skip til og frá Íslandi, viliun Vér, fyrst um sinn i 20 ár, allranádarsamligazt fríat hafa fyri farmpeninga- (Lastepenges) greidslu i enum Donsku, Norsku og Hertugadæmanna høfnum, og øll þau skip, sem beinleidis

sigla

sigla til og frá Íslandi, fyri *Cabo finis terræ* (á *Spáni*) skulu eins lengi fríut vera fyri þræla- farm- og lausnar-penínga greidslu (Slave- Laste- og Ranßons-Penge), sem annars er løgd uppá slíkar sjófarir.

9.

Somuleidis skal allr inn- og út-lenzkr varníngr, af hvøriu helzt tagi, sem vera kynni, er til Íslanz flyzt, fyrst um sinn í 20 ár, olldúngis frí vera frá allri Tolls- og Consúmtións-penínga greidslu á Íslandi, hvert helldr hann flyzt frá inn- edr út-lenzkum stødum, og allt eins má þadan útflytia alzkonar íslenzkann varníng at tollfríu, bædi til innlenzkra og framandi stada.

10.

Allr íslenzkr varníngr, sem frá Íslandi flyzt, má og einnin i 20 ár nióta tolls- Accise- og Licent-fríunar, vid alla tollstadi i Vorum Ríkium og Hertugadæmum, og fyrst um sinn fríekinn vera fyri Consúmtiónspeníngum í þeim Donsku og Norsku Stodum, er hann flyzt til; en verdi hann þadan aptr útfluttr til framandi stada, skal þar af greida, eins og híngat til, 1 af hvøriu 100di, i stad útførslu-tolls.

11.

Allr sá varníngr, sem til Íslands flyzt frá Danmorku, Norvegi edr Hertugadæmunum, skal í ámynzt 20 ár, fríadr

vera

vera, bædi frá útførslu-tolli, og tolli á milli rikianna, frá hvorium helzt londum og stodum sem er; þó med því skilyrdi, at þat sannist med hlutadeiganda yfirvallds vitnisburdi á Íslandi, hvar helzt hann er affermdr, at hann þar sé innfluttr til solu í landinu. Ekka géfst þá, sem venia er til, uppbót fyri Consúmtión á matvælum, er þannig útflytiaz, og á tóbak, sem hér er spunnid, sú uppbót, sem Vér lofad hofum í Vorri allramildustu fyriskipan af 12ta Aprilis 1786 §. 7, sé þat til Íslands flutt; en þarámót skal eingi tilbót framar géfaz, sem híngad til, frá enda Aprilis 1787 á innlenzkt brennuvín.

12.

Til þeß at upporfa og styrkia því meir téda kauphondlun, og svo hún því fyrr mætti frá Íslándi med dugnadi framqvæmd verda, viliumi Vér allránádarsamlegazt veita þeßum 6 hofnum á Íslandi, nefnilega: Reykiavík, Grundarfirdi, Skutuls-edr Ísa-firdi, Akreyri edr Eyiafirdi, Eskifirdi og Vestmannaeyium, Kaupstada-Rétt og þvílíkt Frelsi, sem Vér med annari allramildaztri fyriskipan viliumi sér í lagi sídarmeir kunngiora, og skal þeßum Stodum þarmed unnaz slík frelseit, er Vér álítum nægilig, til þeß at áhýsa bædi nockra framandi, og eins Vora eginn þegna, til at taka þar bústadi og hagnýta oll þau gædi, er Íslands ágódi frambýdur.

13.

Til þeß at slík kauphandlan enn framar útbreidaz megi umhverfis allt Ísland, og innbyggendum lanzins, sem fyrst, veitaz tækifæri til Eigin-kaupskapar, má og einnin svo morgum borgurum af þeßum Kaupstodum, sem vilia, leyft vera, sem út-búda-monnum (Udliggere), at stofna minni kauphondlan í þeim hérodum, er liggia til sérhvørs Kaupstadar, hafi þeir fyrst unnit borgarrétt til kaupskapar í Stadnum, og sanni fyri hlutadeganda yfirvalldi, at þeir byrgir séu af ollum þeim varníngi, er naudsynlegr virdiz fólki til lífs-uppheldis og biärgræda - framqvæmdar. Slíkum verzlunar-edr útbúda - monnum skal þvi leyft, fyrst um sinn í 20 ár, ei einúngis at kaupslaga vid hvørn annan útbúda-edr Kaup-stad þeir vilia, helldr og beinleidis heim til sín at útvega sér varníngs - farma allstadar frá, úr Vorum Ríkium og Londum, og aptr at útsenda varníngs - farma hvort á land þeim haganlegt vyrdiz, gæti þeir at eins þeß, sem almennt er fyriskipad, um alla adra, er kauphondla á Íslandi.

14.

Jafnvel þó Kaupmennirnir í Kaupstodunum á Íslandi, og fyri utan þá útbúdamennirnir megi einir hafa kauphondlunar-rétt í landinu med innfærslu varníng; þá skal þat þó, eins og híngat til, sérhvørium innbyggianda leyft, at stunda hvoria adra leyfiliga næríngu, idn edr handverk

á landsbygdinni, er hann siálfr vill. Þat sé og öllum Íslands innbyggendum í siálfs valldi, at hafa skipti sín í kaupum og sölum, ei einúngis vid hvörn helzt útbúda-helldr og einnin hvörn helzt Ka up-stad þeir vilia, án þeß at þeir á nockurn hátt skuli bundnir vera vid eitt hérad, landsplàts edr Stad, ödrum fremr.

15.

Þóat allranádarsamlegazt leyst sé öllum þeim þegnum Vorum, hvörra gétid var í 3ia pósti, frá byriun ársins 1788, at kaupslaga á Íslandi, hvört sem nockurr þar búandi verzlunarmadr kynni at hafa giort útvegu til þvílíkra varníngs-farma, edr ei, þá vilium Vér samt, til þeß at styrkia enn framar þvílík fyritæki, at þau skip, sem eptir ádrgreindann tíma, einúngis sigla í slíkar veidivændir, fyrst skuli leggia til einhvörs Kaupstadar á Íslandi, og skila Stadarins yfirvalldi, varníngs-registri sínu. Þó skulu þeir eingannveginn skylldir til at afferma þar edr ferma, edr borga nockurn kostnad, miklu helldr skal þeim leyst, ef varníngr þeirra géngr ei út at siálfs óskum strax er þeir skilat hafa ádrsögdu registri, at sigla þadan til hvörrar hafnar þeir vilia, og þar at liggia í 4 vikur, gétr þá hvörr og einn af landbúum keypt ad þeim naudsyniar sínar til fædslu og biargrædis-nota, og líka selt þeim varníng sinn.

16.

Til enn frekari uppreisnar biargrædis-veganna, vilium Vér og, at hlutadeganda Collegii frekara umstilli, allranádarsamlegazt veita hvorium þeim, er vilia færaz í fáng, at leggia kostnad til, edr med framqvæmd og menníngu efla fiskiveidar edr adra Íslandi miøg nytsama biargrædis-útvegu ad stórmunum, ásamt þeim handverksmønnum, er Íslandi vyrdaz gagnligaztir og þat mest þarfnaz, vilie þeir taka sér bólfestu þar í Kaupstødunum, slíka nád og hlunnindi, sem eptir kríngumstædum naudsynleg finnaz.

17.

Svo at landit verdi byrgt af svo miklum gángpeníngum, sem til kaupskapar vidþarf, vilium Vér og allramilldiligazt bera umhyggiu fyri, at fæcka bancó-sedlum þeim, er nú gánga á Íslandi, eptir því, sem Vort Finance-Collegium leidir Oß nærmeir fyrir siónir.

18.

Til léttis innanlanz kauphøndlun, flutníngum yfir sió og yfir høfud øllum fiskiveidum, vilium Vér allranádarsamlegazt framhallda láta þeirri hafna- og fiarda-mælíngu umhverfis Ísland, er hafin var árit 1774, enn afløgd 1778, eptir frekari reglum, er þarum áqvardaz skulu. Sømuleidis vilium Vér allramilldiligazt veita þeim, er smída láta byrdínga

 edr

edr adrar hentugar skútur til flutnínga og hafsiskis, hæfilega Upporsun þartil.

19.

Svo at jafnadarlega verda kunni ferdir á milli Íslands og Vorra annara landa í nordrálfunni, vilium Vér á einhvorn hátt bera umsión fyrir, at sett verdi viß og stødug orda med póstskip eitt, er liggi vetrarlegu í Íslandi, en at vorum snemmindis, taki þadan med sér til Norvegs og híngat, bædi bréf þegna vorra, og hin, er Vorri þiónustu heyra, og eins hvad annat, er hrada þarf; líka skal þat skip med sér taka heim aptr til lanzins, bréf þau øll og bod frá Vorum Collegiis, er þá fyri hendi eru, ásamt ødrum bréfum og ferdafólki.

20.

Þar ed Vér ecki viliuni framvegis leggia neinn þann þúnga á ena frí-kauphøndlandi, er legit hefir á enum fyrri léntu (*octroyerudu*) kauphøndlunum, þá skulu allir kauphøndlandi, hér eptir fríadir vera frá skylduflutníngi ferdafólks kauplaust landa á milli; en þarámót vilium Vér allranádarsamligazt unna Vorum embættismønnum og odrum, er fara í Ríkisins erindagiordir, nockurs í fararkostnad. Þó skal þat øllum skipherrum bannat, at feria frá Íslandi nockurn þann, er ecki hefir farar-leyfi (paßa) af hlutadeganda Amts-yfirvalldi.

21.

21.

Sømuleidis er allt þat afgialld framvegis aftekit, er híngat til hefir lagt verid á enar léntu (*octroyerudu*) kauphøndlanir, og þarámedal tilbót sú, er Vorum embættismønnum á Íslandi, ásamt íslenzkum stúdentum og skólapilltum híngat til hefir logd verid, bædi í þócknun fyrir starfa þeirra vid Vora kauphøndlun, og eins í færíngar-þócknun, at þór leiti, sem þeir ei máttu flytia varníng af landinu og selia hann sér til ágóda. Sérílagi skal hit fyrra á enda, med starfa embættismannanna vid núverandi kauphøndlun, en ferdir og adrar atgiordir þeirra fyrir kaupmenn, borgiz þeim framvegis af hlutadegendum, eptir norsku logum og þar ad lútandi fyriskipunum; en hit seinna skal á enda, úr því núverandi kaupskapar-giord, aflegzt á sérhvorium stad.

22.

Þarámóti vilium Vér framvegis allranádarsamligazt lúka af fiárhirzlu Vorri, því, sem landlæknirnum og læknisbúdinni (Land-Physico og Apothekinu) híngat til hefir af kauphøndluninni lagt verid, og fyrst um sinn, sem híngat til, fátækra penníngum á Íslandi, eins og Vor kauphøndlan þá golldit hefir, eptir Reglimentinu af 1777, unz slíkir penníngar aptr med tímanum uppbætaz kynnu af fríuilligum gáfum, edr á annan hátt; þarámót skulu kaupphøndlendr fríadir vera frá ollu afgialldi af lausafé, á medan Vér stondum fyri þeßu útgialldi.

23.

Þar ed Vér á ollu landinu allramildiligazt aftøkum Vora íslenzku taxtaskipun frá lokum April-mánadar 1787, svo skal og einnin allt hvad Vor hondlun er eigandi á Íslandi af inn- og út-færslu-varníngi, edr reidu-peníngum, ásamt húsum, innistædu og útistandandi skulldum á hvørri hofn, þá uppskrifaz af réttarins hlutadegandi þénurum. Um allt þetta skal skrásetia greiniliga giørnínga, er seinna meir skal byggia á, bædi þeßara eigna afhendíng til annara, og eins þau skil, er hondlunarinnar þénarar loksins egu á ollu at standa.

24.

Af ollum þeim skulldum, sem ákomnar eru, ádr þetta Vort allranádarsamlegasta opna bréf kunngiørt verdr vid sérhvoria hofn á Íslandi, skulu fyrst allar þær, sem eru elldri enn 1764, og ennþá finnaz og eru þeckianligar í kaupmanna-bókunum olldúngis afskrifaz; en af hinum (yngri) vilium Vér allramilldiligazt uppgéfa helmínginn, ef hlutadegandi skullda-nautar, giallda hinn helmínginn annathvørt í peníngum, ellegar órækum íslenzkum varníngi, eptir taxtans verdlagi, innan útgaungu Julii-mánadar 1787; en þær skulldir, er þá finnaz úgolldnar, standi framvegis Oß til reiknings, med sama rétti, og þær híngat til haft hafa.

25.

Somuleidis skal allt lán af núverandi kauphøndlun vid sérhvøria høfn á Íslandi enda taka, úr því þetta Vort opna bréf auglýst verdr, og eigi hafa stad, ámedan kauphøndlan þar einhvørsstadar vidhelzt á Vorn kostnad, nema einúngis eptir ásigkomulagi, ef vera mætti á naudsynia-varníngi, annathvørt til útgérdar í næztu vor-vertíd, edr annara biargrædis-útvega, vilie hlutadegendr undirgángaz, strax at borga þvílíkt lán med abla sínum; og eins megi matvæli til brádustu lífs naudsynia lánaz sønnum þurfamønnum, þó eigi nema uppá yfirvalldanna beldni og ábyrgd. Þat, sem med þeßu móti lánad verdr, skal eiga sama rétt, sem høndlunar-skulldirnar híngat til hafa haft, og borgaz med íslenzkum varníngi eptir taxtanum, þar sem þeßar skulldir eru ákomnar innan útgaungu April-mánadar 1787; og skal allt þat, er annathvørt borgaz af því láni, sem Vorir kaupmenn á þennan hátt veita kynnu, edr af fyrri skulldum innan útgaungu Julii-mánadar, reiknaz med þeim útfærslu-varníngi, er á Vorn reikníng útsendiz at hausti komanda.

26.

Þau hús og innistædu, ásamt øllum þeim innfærslu-varníngi, er vera kynnu vid sérhvøria høfn á Íslandi í Apríl-mánadar lok 1787, en þó einkum hinn sídazta, vilium

Vér

Vér hérmed allramildiligazt frambióda íslenzkum kaup- og odrum efna-mönnum í landinu, annathvort í einu lagi, eda skipt í fleiri stadi, þó svo at hvad, sem einusinni er lagt í hvorn hlut, verdi eigi aptr adskilit, helldr afhendiz í einu lagi. En þar ed Vér helzt óskum, at þessar eignir og varníngr verdi medteknar af þeim, er med því villdu reisa sér bú vid hafnirnar, og þar ástofna fría kauphöndlun, svo viliunr Vér einnin allranádarsamlegazt áqvarda þarvid sikka skilmála, at jafnvel þeir, er nú, sem stendr, ecki eru miog efnugir, gætu þetta odlaz, bæri þeir at eins gott skinbragd á kaupskap, og séu þarhiá kunnir at gódu framferdi í kauphöndlun. Þess vegna skulu þeir og: a) fyri hús og partis heyrandi innistædu einúngis borga helmíng þess, er þau kostat hafa, og bókat er vid höndlunina. b) innfærslu varníngsinn, sem fyrifinzt, skulu þeir borga eptir taxtans verdlági, af hvoriu þó skal slegit 20 af 100di. c) skal á hvorn hluta, eptir því, sem ástendr, skipta tilhlýdilegri summu af reidu-peníngum, og d) eptir því, sem hvorr gyrniz, einu edr fleirum skipum, er þeir siálfir megu kiósa sér af Vorum kauphöndlunar skipum, fyri svo sannsýnt verd, sem verda má; en e) giorvallt kaupverd alls þessa, má óborgat standa rentulaust, á móti gilldu vedi, þó med því skilyrdi, at kaupendr borgi at 5 ára fresti, árlega $\frac{1}{10}$da part af kaup-verdinu, og jafnframt halldi kaupskap uppi á Íslandi, svo lengi þeir egu Oss skulldir at lúka, og eins á medan loglega vidhalldi, undir umsión yfirvalldsins, ollum húsabyggíngum,

þar

þar þat varníngs-upplag, er á hvorium stad finzt, ætid má ásamt hinu standa Oß at vedi.

27.

Þeir á Islandi, er ser nýta vilia nú talda kostu, megu þat til vitundar gefa, ef ske má, nú þegar med skipunum á næztkomanda hausti, enn í seinazta lagi med því póstskipi, er hýngat skal gánga frá sudrlandi, at vori komanda 1787, og skal þeim þá líka allranádarsamligazt leyft at áqvarda, hvada varníng þeir helzt æskia ser, at sendr verdi at ári á þá hofn, hvar þeir medtaka eignir Vorrar kauphondlunar; þeßi varníngsfarmr skal þá, eptir því, sem ástendr, og ef hlutadegendr gefa þat tímanlega til vitundar, innkaupaz þeim til handa af Vorri kauphondlun, og án skipleigu eda nockurs annars kostnadar, flytiaz til landsins, nema matvæli ein, á hvor logd skal skipleiga ásamt abyrgdar-kaupi fyrir siósskada (*assurance*) en alls eingi kostnadr annar. Hafnir þær, hvar anathvort varníngs-leyfar verda medteknar, og nýir farmar ad ári útvegadir af Islands innbyggendum, edr, sem uppsigldar verda eptir þeßu frambodi af odrum þegnum Vorum, skulu olldúngis ecki uppsigldar verda at ári á Vorn kostnad; helldr vilium Ver, jafnvel þó varníngsfarmar at ári á Vorn kostnat sendir verdi til annara hafna, annathvort vegna

C þeß

þeß, at hlutadegendr ecki hafa viliat siálfir ánafna þá, ellegar hins, at ósk þeirra herum er ofseint komin her til vitundar, eingu at sídr allranádarsamligazt unna þeim, er medtaka afgángs-varnínginn vid hofnina, kaups á slíkum varníngs-farmi, fyrir innkaups-verdit, nema at fyrir matfaungin skal auk þeßa giallda skipleigu og ábyrgdar-kaup fyrir sióskada (Assurance), med somu kostum og taldir vóru í 26ta pósti.

Þarámót skal med útsolu slíkra varníngsfarma á þeim hofnum, er einginn býdst þeim til vidtoku, framfarid eins og segir i 2rum pósti, en med eignir og varníng Vorrar kauphondlunar á slíkum hofnum, skal svo hondla, sem seinna meir frekar verdr áqvardat.

28.

Kynni annars svo til at bera, at hlutadegandi Amts-yfir-vollð væru í efa um, hvort hin frambodna vedsetníng mætti nægilig virdaz, svo Ver siálfir þeßvegna álykta þyrstum, hvort Ver villdum hana Oß lynda láta, edr ei, þá vilium Ver, til þeß at byriun hinnar fríu kauphondlunar eigi skuli tólmaz, hermed allranádarsamligazt leyfa,

at

at Amts-yfirvølldin megi fyri fram afhenda serhvørium, er medtaka vill, áminztar eignir, m. o. fl., og sem þau meta þartil hæfann, í næstkomanda Aprîl-mánadar lok, þann hluta af húsum, innistædu og afgángs-varníngi, er þeir þá kosit hafa, til fullra umráda med ádrsøgdum kostum, í von um Vort allranádarsamligasta samþycki til þessa. Þó skulu þeir, er á þennan hátt afhendiz, ámedan álltaz, sem kaupho̧ndlendr Vor vegna, unz Vor allramilldazti úrskurdr á þessu efni, er kominn til lanzins, svo at þeir at sonnu megu selia og kaupa eptir siálfs vilia og bestu skinsemd, enn þó eingu at sídur, þyki Oss ecki vedsetníngin nægilig, ábyrgiz allt vid Oss, eins og hvorr annar, er nockut af Vorum eignum hefir Vor vegna til umráda.

29.

Ullvef-smidiuna í Reykiavík, og brennusteinsverkit á Húsavík, frambiódum Ver hermed hvørium, er hafa vill, sømuleidis med sannsýnum kiorum, er seinnámeir áqvardaz, og megu þeir úti á Íslandi, er þetta eignaz vilia, gefa sig fram, ádr enn póstskipit leggr frá Íslandi at næztu vordøgum, og skal þeim þá framar birt, hvad þessu vidvíkr.

Þó verdr vef=smidian á Reykiavík ecki afhendt, nema med því skilyrdi, at framhalldit verdi því fyritæki, sem nú er þar ástofnat, at kenna únglingum vefnad og spuna, at minzta kosti, svo lengi þetta virdiz þar naudsynlega ómißandi.

30.

Þar ed Ver hætta látum allri kauphøndlan Vor vegna, úr því seinuztu skip eru útsigld af høfnunum at hausti 1787; þá skal og bædi kaupmanna, og allra annara kaup=høndlunarinnar þenara starfa med kaupskap þar í landi, þadan í frá at øllu lokit. En seinnameir megu þeir vænta framar ályktaf, hvør nád þeim, eptir kríngumstædum veitaz kynni, en þó því at eins, at allir, sem þvílíkt ødlaz, skylldiz til at sitia um kirrt í landinu, medan þeir vilia þeß adnióta.

31.

Framan=skrifada pósta, hofum Ver einúngis fyrifram viliad allranádarsamligazt auglýsa, til þeß, at Vorir kæru og hollu þegnar, því fyrr gætu hluttakandi vordit í hinni friu kauphøndlun, sem her er ástofnud.

Þarámót vilium Ver allranádarsamligazt hafa Oß geymt, med annari frekari fyriskipun um ena fríu kaup=høndl=

høndlun á Íslandi, framar at áqvarda allt þar ad lútanda, og vilium Ver, hlutadegendum til enn betri frædíngar, á øllu naudsynligu, er þeßari kauphøndlun vidvíkur, allramilldiligast láta þeirri fyriskipun fylgia óræcar reikníngs-tøblur, yfir ástand kaupskaparins híngat til, ásamt ødrum ávísunum, sem virdaz mættu hvad naudsynligaztar verzlunarmønnum og mest árídandi; og eins fullkomit safn af þeim løgum og fyriskipunum, sem útgefnar eru til Íslands, eda gánga þar, og vidvíkia lanzins kauphøndlun.

Hvareptir vidkomendr allraundirgefnast skulu vita at breyta. Gefit á Voru Sloti Friderichsbergi, þann 18da Aug. 1786.

Undir Vorri Konungl. Hendi og Innsigli.

CHRISTIAN R.



Reventlov. Erichsen. Hoe.

Vorndran.